













# GUARDIANS OF THE PEACE

Today, more than at any time since the 1940's we owe them a special salute — these fellow-citizens in the Canadian Armed Forces who stand ready to defend our freedoms and help guard world peace.

**DEPARTMENT OF NATIONAL DEFENCE**

# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XLIV. ÁRGANGUR

---

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

**Meðlimagjald $2.00 á ári**

---

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

## HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephanson, skáld
Frú Stefanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gillson, U. of M. President
Einar Jónsson, myndhöggvari
Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri
Einar Sturlaugsson, prófastur
Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld
Gunnar B. Björnsson
G. J. Oleson
Halldór Hermannsson, prófessor
Dr. theol. Rúnólfur Marteinsson
Einar Páll Jónsson, ritstjóri og skáld
Dr. Þorkell Jóhannesson, háskólarektor
Rt. Rev. C. V. Pilcher, Sydney, Australia
Dr. John C. West, fyrrv. forseti U. of N.D.
Dr. Vilhjálmur Stefánsson

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1962

### A. Heiðursverndarar (Honorary Patrons)

His Excellency the Right Honourable Vincent Massey, fyrrv. landstjóri Kanada.
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.
His Excellency the Right Honourable George P. Vanier, landstjóri Kanada.

### B. Heiðursfélagar (Honorary Members)

Prófessor Sigurður Nordal, Reykjavík, Ísland
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Blöndósi, Ísland
Jónas Jónsson, fyrrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D.C.
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúi, Stavanger, Noregi
Vilhjálmur Þór, bankastjóri, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Próf. Ásmundur Guðmundsson, fyrrum biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Pófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, fyrrv. sendiherra, Reykjavík, Ísland
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árn Helgason raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, fyrrv. yfirdómari, Bismarck, North Dakota
Stefán Einarsson, fyrrv. ritstjóri Heimskringlu, Vancouver, B.C.
Dr. Stefán Einarsson, próf. emeritus, Reykjavík, Ísland
Gunnar Thoroddsen, ráðherra, Reykjavík, Ísland
Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir, Minneapolis
Guðmann Levy, fjármálaritari Þjóðræknisfélagsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. theol. Valdimar J. Eylands, Winnipeg, Manitoba
Mrs. Kristín Thorsteinsson, Gimli, Manitoba
Hon. John G. Diefenbaker, forsætisráðherra Kanada
Hon. Dufferin Roblin, forsætisráðherra Manitobafylkis
Guðm. Í. Guðmundsson, utanríkisráðherra Íslands

**C. Styrktarfélagar 1962**
**Sustainging members**

Mr. K. W. Johannson

Mr. Johann Th. Beck

Mr. and Mrs. Einar E. Stephanson, Red Deer, Alta.

Mr. Bergþór Sveinsson

Dr. Richard Beck

Mrs. Mekkin Perkins, 337 Wesley Gardens, Des Moines, Calif.

Mr. Frank T. Eastwood

Mr. Walter Maxon, Innisfail, Alta.

Mr. Grettir Leo Johannson.

**D. Lifs members**

K. Valdimar Björnson, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Björn Björnson, Consul of Iceland, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Dr. Helgi P. Briem, Reykjavík, Iceland

Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

Dr. Árni Helgason, Consul of Iceland, Wilmette, Ill., U.S.A.

Eric Ísfeld, Winnipeg, Man.

Grettir Leo Johannson, Consul of Iceland, Winnipeg, Man.

J. Walter Jóhannson leikstjóri, Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson, Winnipeg, Man.

Guðmann Levy, Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Margrét Levy, Winnipeg, Man.

Óskar E. Levy hreppstjóri, Ósum, Húnavatnss., Iceland

Gunnar R. Pálsson, Lake Park, Florida, U.S.A.

Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, Seven Sisters Falls, Man.

Dr. P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

Dr. Richard Beck, Grand Forks, N. Dak.

Mrs. Mekkin S. Perkins, Des Moines, Calif.

Einar E. Stephanson, Red Deer, Alta.

Walter Maxon, Innisfail,Alta.

1. ÍSLAND

**E. Ársfélagar**

Jóhannes Eiríksson, Kristneshæli, Eyjafjarðarsýslu

Landsbanki Íslands, Reykjavík

Miss Kristín H. Pétursdóttir, Reykjavík

Séra Ásgeir Ingibergsson, Hvammi í Dalasýslu.

2. KANADA

**Ashern, Man.**

Björn Jónasson

**Atikokan, Ont.**

Einar I. Swanbergson

**Baldur, Man.**

J. A. Sveinsson

**Brandon, Man.**

Dr. E. J. Skafel

**Hayland, Man.**

Sigurður B. Helgason

**Foam Lake, Sask.**

Mrs. Steinunn Inge

**Gimli, Man.**

Miss Ljótunn Thorsteinsson

**Matheson Island, Man.**

Árni G. Johnson

**Montreal, Ont.**

Mrs. H. L. Robson

**Prince Rupert, B.C.**

Mrs. Fríða Phillipson
Kristján Einarsson

**Pigeon Point, Man.**

Valgeir G. Stadfeld

**Riverton, Man.**

Hallgrímur Joh. Stadfeld

**Saichton, B.C.**

Mrs. Thordis Fisher

**Toronto, Ont.**

H. J. Péturson.

**Vancouver, B.C.**

Mrs. S. Johnson
C. M. Ísfjörð

**Leslie, Sask.**

Rósmundur Árnason
Ásgeir Gíslason
Páll Guðmundsson
Thorsteinn Guðmundsson

Jóhann Gíslason
Guðmundur Stefánsson

**Riverton, Man.**

K. G. Stadfeld

**Wapah, Man.**

J. Ragnar Johnson

**Winnipeg, Man.**

Mrs. L. A. Björnson
J. A. Eastman
Miss Vilborg Eyjólfsson
Miss Carolina Gunnarsson
Mrs. Gyða Hurst
Halldór J. Stefánsson
David Björnson
Mrs. Rose Björnson
G. F. Jónasson

**Wynyard, Sask.**

Jakob J. Norman
Gunnar Jóhannson

3. BANDARÍKIN

**Boston, Mass.**

Kormákur Ásgeirsson
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson

Einar Barnes
Ari Bjarnason
Valgeir Einarsson
Kapt. Thor Guðmundss.
Kapt. Guðm. Jóhanness.
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theodór Jónsson
Guðmundur Pálsson

**Cashmere, Wash.**

Chris Guðmundson

**Charlottesville, Virg.**

Prof. R. L. Kellogg

**Cismont, Va.**

Prof. Frederic T. Wood

**Ft. Landerdale, Fla.**

Gunnlaugur Illugason

**Grand Forks, N. Dak.**

Mrs. Margrét Beck
Mrs. V. Guðmundson, University of N. Dak. Library

**Ithaca, N.Y.**

Vilhjálmur Bjarnar

**Lincoln, Nebraska**

Prof. Paul Schach

**Hopple, N. Dak.**

Mrs. Laufey Aaland

**New Brunswick, N.J.**

Prof. Helgi Johnson, Rutgers University Library

**Minneapolis, Minn.**

G. T. Athelstan

**New Haven, Conn.**

Yale University Library

**Oceanside, L.I., N.Y.**

Andrés Guðmundson

**Salinas, Calif.**

Prof. Loftur Bjarnason

4. DEILDIR OG SAMBANDSFÉLÖG

**The Icelandic Society of New York**

Hannes Kjartansson
Jerome Miller
Mrs. Jerome Miller
Miss Halldóra Rútsdóttir
Ludvik Jónsson
Richard Richardson
Mrs. Lára Gosh
Mrs. Margrét Rossback
Mrs. Thorey Vogle
Edward Eoulfield
D. Sommerfield
Árni Ólafsson
Capt. Olaf Olsen
Capt. Magnús Norðdahl
Mrs. William Richards
Mrs. Edda Magnússon
Mrs. Eane Thomson
Mrs. Nanna Kolberg

**„Frón", Winnipeg**

Forseti
Próf. Haraldur Bessason
Varaforseti
Jakob F. Kristjánsson
Skrifari
Heimir Thorgrímsson
Varaskrifari
Skúli Jóhannson
Gjaldkeri
Jochum Ásgeirsson
Varagjaldkeri
Miss Guðbjörg Sigurðsson
Fjármálaritari
Gunnar Baldvinsson
Varafjármálaritari
Guðmann Levy
Bókavörður
Mrs. Ólína Johnson

**Meðlimir**

Ævifélagar:
Grettir L. Johannson
Séra Philip M. Pétursson
Walter Johannson
Grettir Eggertson
Guðmann Levy
Anna M. Levy
Mrs. B. E. Johnson
Eric H. Ísfeld

Ársfélagar:
Harold Axdal
Hannes Anderson
Margrét S. Anderson
Jochum Ásgeirsson
Mrs. Jochum Ásgeirsson
Oddný Ásgeirsson
Soffía Benjamínsson
Jóhann Th. Beck
Svanhvít Beck
Shirley G. Block
Rafnkell Bergson
Andrés Björnsson
Gunnar Brynjólfsson
Guðmundur Bjarnason
Skúli Böðvarsson
O. G. Björnsson
Haraldur Bessason
Ásgerður Bessason
Ólafur Bjarnason, Seattle
Guðrún Baldvinsson
Gunnar Baldvinsson
Jóhannes Christie
Jóhanna Cooney
Jón Christopherson
H. F. Danielson
Mrs. H. F. Danielson
Lína Dunning
Gestur Davidson
Mrs. R. Davidson
C. O. Einarsson
Árni G. Eggertson, Q.C.
Maja Eggertson
Stefanía Eydal
Gunnar Erlendsson
Jens Elíasson
Ólafía Finnbogason

G. Finnbogason
Fred Friðfinnsson
A. Fridrickson
Mrs. Trausti Friðriksson
Ingunn Gíslason
Mrs. Ragnar Gíslason
J. S. Gillies
Magnús Gunnlaugsson
Matta Gunnlaugsson
Kristinn Gunnlaugsson
Carl Hanson
Ben Heiðmann
Karólína Heiðmann
Páll Hallson
Th. Hansson
Eric Helgason
Svava Helgason
Fanney Helgason
Thor Otto Hallson
Jón Hafliðason
T. L. Hallgrímsson
Jónína Hjálmson
Th. Ísleifson
Mrs. Th. Ísleifson
Björg Ísfeld
Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Rósa Jóhannsson
Kristín Johnson
Skúli Jóhannsson
Erika Jóhannsson
Bertha Jones
Mrs. Jóhanna Jónasson
Ingibjörg Jónsson
J. G. Jóhannsson
Finnur Johnson
Kristín Johnson
Páll Johnson
Ólína Johnson
Mrs. Á. P. Jóhannsson
Inga Johannson
Miss Halla Josephson
K. W. Johannson
Hlaðgerður Kristjánsson
Mrs. Gestný Kristjánsson
J. F. Kristjánsson
Mrs. J. F. Kristjánsson
W. Kristjánsson
Jón K. Laxdal
J. J. Líndal
W. J. Líndal
H. V. Lárusson
Ari G. Magnússon
Helgi Marteinsson
Sumarliði Matthews
Jakobína Nordal
Mrs. Ben. Ólafsson
Th. Olafsson
Helgi Olsen
Óli Ólafsson
Dr. Tryggvi J. Oleson
Elva Oleson
Snorri Oleson
Sesselja Oddson
Jónína Olson
Margrét Paulson
Mrs. William Paulson
Guðbjörg Paulson
Sigríður Phepps
Þórey Pétursson
Hólmfríður Pétursson
Margrét Pétursson
Ólafur Pétursson
Pétur J. Pétursson
Hannes J. Pétursson
Jón Samson
Rósa Sigfússon
Bergljót Sigurðsson

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

FERTUGASTI OG FJÓRÐI ÁRGANGUR, 1962

Ritstjórar

GÍSLI JÓNSSON

HARALDUR BESSASON




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1963

# Myndir

Bls.

Vilhjálmur Stefánsson ..... 4

Einar Jónsson ..... 53

Guðr. H. Finnsdóttir ..... 63

Six Arctic Maps on Pages: ..... 65, 66, 68, 70, 72, 75

PRENTAÐ HJÁ COLUMBIA PRINTERS, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

Bls.

PRÓFESSOR RICHARD BECK: Skáld athafnanna ... 5

GÍSLI JÓNSSON: Hagalagðar ... 21

GUTTORMUR J. GUTTORMSSON: Sigurverkið ... 24

DR. J. P. PÁLSSON: Vökustaurar ... 28

DR. STEFÁN EINARSSON: Sitthvað um ísl. bókmenntir ... 31

PÁLL S. PÁLSSON: Lánstraust ... 38

RICHARD BECK: Helztu viðburðir ... 39

Umgetning um bók ... 43

RICHARD BECK: Mannalát ... 44

EDITORS' NOTE (English Dept.) ... 52

VILHJÁLMUR BJARNAR: Einar Jónsson ... 53

DR. J. P. PÁLSSON: Mona Lisa ... 59

GUÐRÚN H. FINNSDÓTTIR: On The Ebbing Tide ... 60

PRÓFESSOR TRYGGVI J. OLESON: Inventio Fortunata ... 64

Fertugasta og þriðja ársþing ... 77

PRÓFESSOR RICHARD BECK:

# Skáld athafnanna

## Ævi- og starfsferill dr. Vilhjálms Stefánssonar í megindráttum.

I.

Aldrei kem ég svo í sögufræga byggð Íslendinga á strönd Winnipegvatns í Manitoba, að það hafi eigi djúpstæð áhrif á mig. Í fyrsta lagi er það fagurt og hreimmikið nýlendunafnið sjálft, **Nýja-Ísland**, sem alltaf heillar hug minn, og þessu næst saga byggðarinnar, er segja má, að liggi þar í loftinu. Hún grípur mig sterkum tökum, jafn minnisstæð og hún er og áhrifarík hverjum þeim, sem eitthvað þekkir til hinnar raunaþungu og hörðu, en jafnframt hetjulegu og að lokum sigursælu brautryðjendabaráttu, sem íslenzkir frumherjar háðu þar og alkunn er. Ekki er því að furða, þótt merkilegir og kjarnmiklir kvistir hafi sprottið úr jarðvegi þess byggðarlags, enda eru þeir orðnir margir, og víðkunnir fyrir manndóm og afrek á ýmsum sviðum, að talað sé í táknrænum skilningi um sonu byggðarinnar, að dætrum hennar ógleymdum, sem einnig hafa átt sinn þátt í því „að gera garðinn frægan“.

Öllum mun þó koma saman um það, að í þeim hópi beri hæst dr. Vilhjálm Stefánsson, landkönnuðinn, vísindamanninn og rithöfundinn heimsfræga, því að það var hann allt í senn, og jafnframt óvenjulega snjall fyrirlesari, sem flestum mun lifa í minni, er á hann hlýddu.

Þrjú lönd, Kanada, Bandaríkin og Ísland, hafa og geta af góðum og gildum ástæðum eignað sér hann. En Nýja-Ísland getur gert það með alveg sérstökum hætti, því að þar var hann fæddur í Hulduárhvammi í Árnesbyggðinni. Á það minnir Þorsteinn Þ. Þorsteinsson kröftuglega í þessu erindi úr kvæði hans um Vilhjálm:

Við Huldá í Hvannrjóðri smáu
og hringgirtu' af Ný-Íslands skóg
í bjálkahýsi frumbyggja fæddist
vor fagnaðsspá — óskrifuð þó —,
vor ósksveinn í æfintýrsdraumum,
sem erfði' alla norðursins von.
Úr þjóðbroti Þorfinns á ströndum
rís þjóð vorri heimsfrægur son.

Þetta er vel mælt og í engu orðum aukið. Þegar Vilhjálmur Stefánsson lézt þ. 26. ágúst 1962 í Hanover, New Hampshire, þar sem hann hafði átt heima hin síðari ár, féll með honum að velli sá maður íslenzkrar ættar, er frægastur hefir orðið á síðari öldum og borið hefir hróður Íslands víðast um lönd.

Minningarguðsþjónusta um Vilhjálm fó fram á Dartmouth College í Hanover 30. ágúst 1962 og var lát-

laus en virðuleg; minningarræðan var faguryrt og lýsti vel hinum látna hugsuði og athafnamanni, en það var hann hvort tveggja í óvenjulega ríkum mæli, samhliða hetjuskapnum og vísindamennskunni; einnig voru lesin, ásamt tilhlýðandi ritningargreinum, kvæði, sem Vilhjálmi höfðu verið sérstaklega kær, eða vörpuðu ljósi á hann sem mann, skapferli hans og hetjudáðir. Dr. Fred Berthold Jr., sem er forseti Tucker Foundation og prófessor í trúfræði við Dartmouth College, stjórnaði kveðjuathöfninni.

## II.

Í Hulduárhvammi í Nýja-Íslandi sá Vilhjálmur Stefánsson fyrst dagsins ljós 3. nóv. 1879, og var því kominn langt á 83. aldursár, er hann lézt. Í Árnesbyggðinni í Nýja-Íslandi átti hann því sínar rætur og vitanlega ættarræturnar djúpt í mold og menningu Íslands um aldaraðir. Í Hulduárhvammi má segja, að hann hafi stigið sín fyrstu spor, þótt barnungur færi hann þaðan. En hver veit, hve snemma barnshugurinn mótast eða hve djúp og varanleg hin fyrstu áhrif verða á hjarta og sál, Eitt er víst, að Halldór Helgason frá Ásbjarnarstöðum hafði mikinn sannleik að mæla, er hann komst svo að orði í andríku og fögru kvæði sínu til Stephans G. Stephanssonar í Íslandsferð hans 1917:

Þar sem fyrsta ljósið ljómar,
lyftist brjóstið, tárið skín,
þar fá hugans helgidómar
heildarblæ á gullin sín.
Það sem andans orku hvetur
oftast verður þangað sótt,
enginn kvistur grænkað getur,
gefi ei rótin sprettuþrótt.

Íslenzka byggðin í Nýja-Íslandi hefir margsýnt það í lífi sona sinna og dætra, að hún hefir átt, og á enn, þann sprettuþrótt, sem orðið hefir þeim vængur til flugs og uppspretta orku til framsóknar og dáða, og vafalítið hefir þá hennar frægasti sonur átt eitthvað til hennar að sækja í þeim efnum, án þess lítið sé gert úr djúpstæðum ættarerfðum hans og mótandi áhrifum umhverfisins á hann á æsku- og unglingsárum hans sunnan landamæranna.

Foreldrar Vilhjálms, Jóhann Stefánsson, er var fæddur í Tungu á Svalbarðsströnd við Eyjafjörð, og kona hans, Ingibjörg Jóhannesdóttir, hreppstjóra í Hofstaðaseli í Skagafirði, fluttust vestur um haf til Nýja-Íslands árið 1876, en námu land í Árnesbyggð vorið eftir; þau voru því meðal fyrstu landnema þar í byggð, og jafnframt í hópi þeirra, er þar háðu, með miklum hetjuskap, þá hörðu brautryðjendabaráttu, sem skráð er óafmáanlegu letri í sögu Íslendinga vestan hafs, og einnig geymist á söguspjöldum heimaþjóðarinnar.

Vorið 1881 fluttu foreldrar Vilhjálms suður í íslenzku byggðina í Dakota og námu land í grennd við Mountain. Kallaði Jóhann bæ sinn Tungu eftir fæðingarstað sínum á Svalbarðsströnd. Bjuggu þau hjón síðan í Dakota til æviloka og voru ágætlega látin. „Jóhann tók mikinn og góðan þátt í safnaðarmálum Víkursafnaðar í Dakota. Hann var vel ritfær maður, ritaði oft greinar í **Norðanfara** meðan hann var á Íslandi," segir Thorstína Jackson (Walters) í **Sögu Íslendinga í Norður-Dakota** (bls. 439). Um móðurætt

Vilhjálms má ennfremur á það minna, að Ingibjörg móðir hans var systir séra Gísla Jóhannessonar, er var á sinni tíð einn **Fjölnismanna** og meðútgefandi **Nýrra félagsrita** (Smbr. grein dr. Jóns Dúasonar „Vilhjálmur Stefánsson og Ultima Thule“, **Eimreiðin**, júlí-september, 1943).

Af sjö börnum þeirra Jóhanns Stefánssonar og Ingibjargar, en þrjú dóu í æsku, er nú aðeins eitt á lífi, Mrs. Sigurrós (Rósa) Josephson í Mozart, Saskatchewan, en nána ættingja á Vilhjálmur á Íslandi, meðal þeirra er föðurbróðir hans, Stefán Stefánsson bóndi á Svalbarði við Eyjafjörð, nafnkunnur athafnamaður, háaldraður, en óvenjulega ern eftir aldri, bæði andlega og líkamlega. Er sterkt ættarmót með þeim frændum, honum og Vilhjálmi.

Ennfremur lifir Vilhjálm ekkja hans, frú Evelyn Stefánsson, ungverskrar ættar, glæsileg gáfukona, sem var manni sínum önnur hönd í starfi hans, en þau höfðu verið gift í rúm 20 ár. Hún er einnig kunnur rithöfundur, og hefir gefið út þessar bækur: **Here is Alaska** (ný og endurskoðuð útgáfa 1958), **Within the Circle, Portrait of the Arctic**, og **Here is the Far North.** Hún fór ýmsar ferðir með manni sínum, meðal annars til Grænlands 1953 og áður til Íslands 1949. Ein sér ferðaðist hún til Alaska 1957 og til Síberíu og víðar í Sovíetríkjunum 1959. Hún hefir kennt heimskautslandafræði á Dartmouth College og flytur framvegis fyrirlestra um Norðurlönd í landfræðideild skólans. Hún hefir einnig síðan 1939 verið bókavörður Stefánsson safnsins í Dartmouth (Stefansson Collection) og hefir umsjón með fyrirlestrahöldum um heimskautslöndin af safnsins hálfu, en þess verður nánar getið síðar. Frú Evelyn er félagi í ýmsum fræði- og rithöfundafélögum, svo sem The Society of Women Geographers and The Author's Guild.

Vilhjálmur ólst upp fram undir tvítugsaldur í íslenzku byggðinni í N.-Dakota, á landnámstíð hennar, þegar þar var enn að miklu leyti „óbyggðar landrýmið stóra“, sléttan víðfemt eyðimerkur haf; jafnframt kynntist hann af eigin raun baráttu frumbyggjanna, örðugleikum þeim, er þeir áttu við að glíma, og kröppum kjörum þeirra fram eftir árum. Mótaði æskuumhverfi hans og sú barátta hann með mörgum og varanlegum hætti, og var honum um leið ágætur undirbúningur undir ferðir hans og langdvöl í heimskautslöndunum, en þar urðu að sjálfsögðu margvíslegir erfiðleikar og vandkvæði á vegi hans. Sjálfur var Vilhjálmur sér þess vel meðvitandi, hve djúptæk áhrif æskustöðvar hans í N.-Dakota og frumbyggjalífið þar höfðu haft á hann, og kunni hann að meta það að verðleikum, eins og hann lét í ljós bæði í ræðu og riti.

Um það efni fór Vilhjálmur eftirfarandi orðum í mjög athyglisverðu bréfi, sem hann sendi æskuvini sínum og skólabróður (á háskólaárunum í Grand Forks), Guðmundi Grímsson, þáverandi héraðsdómara og síðar dómstjóra Hæstaréttarins í N.-Dakota, í tilefni af 50 ára afmæli íslenzka landnámsins þar í ríkinu, sem hátíðlega var haldið að Mountain, 1. og 2. júlí 1928.

„Þið haldið nú hátíðlegt afmæli landnáms, sem haft hefir sterk áhrif á líf okkar allra. Þau áhrif hafa, hvað flesta snertir, verið okkur til blessunar. Ég er að minnsta kosti þakklátur fyrir það, að þau ár mín, er ég var næmastur fyrir áhrifum, átti ég heima í nágrenni Mountain, einmitt á sjálfum frumbyggjaárunum.“ (Bréfið er birt á ensku í **Minningariti um 50 ára landnám Íslendinga í Norður-Dakota**, Winnipeg, 1929).

En einkum ritar Vilhjálmur ítarlega og eftirminnilega um æskuár sín í N.-Dakota í upphafskaflanum „Undirbúningur undir lífsstarf sem landkönnuður“ í bók sinni **Veiðimenn á hjara heims**, en það er þýðing á bók hans **Hunters of the Great North** (1922), og jafnframt fyrsta bindið (1937) af Ferðabókum hans, sem Ársæll Árnason, bóksali í Reykjavík, sneri á íslenzku og gaf út. Vilhjálmur fluttist, sem fyrr greinir, með foreldrum sínum frá Manitoba til N.-Dakota árið 1881, er hann var innan tveggja ára, og farast honum þannig orð um fyrstu ár sín suður þar:

„Uppvaxtarár mín, hin næstu tíu, voru á bændabýli í Norður-Dakota og varð ég á veturna að labba 4—5 km. í sveitaskólann, sem á þeim tímum stóð aðeins stuttan tíma ársins. En aðrir skólar voru til, í ýmsar áttir frá bænum okkar, og stundum tókst mér það, þegar einn skólinn hætti, að komast að nokkrar vikur í öðrum skóla, þegar það féll ekki á sama tíma að kennslu væri haldið uppi í þeim.

Eftir að faðir minn dó var jörðin seld og ég varð nú kúreki (cowboy) næstu fjögur árin, úti í óbyggðunum (wild land), en svo nefndum við preríur þær, sem ekki var farið að taka til ræktunar. Næstu nágrannar okkar voru 20—25 km. í burtu í ýmsar áttir frá norðaustri til suðausturs, en hve langt var til næsta nágranna í vestri vissi ég aldrei; það gat hafa verið 200—300 km.“

„Víðáttumiklu slétturnar voru fyrir mér hið fyrirheitna land ævintýranna,“ segir Vilhjálmur ennfremur, en metnaði sínum á þessum árum lýsir hann þannig:

„Fyrsta framaþrá mín, það ég bezt get munað, var að líkjast Buffalo Bill og drepa Indíána. Það var meðan ég var drengur heima í föðurgarði. Þegar ég varð kúreki og fór að stæla Buffalo Bill í klæðaburði, stakk skammbyssunni í beltið á hverjum morgni, rétt eins og hún tilheyrði hinum nauðsynlega fatnaði mínum, breyttist þetta hjá mér og nú varð Róbinson Krúsoe fyrirmyndin. Þetta hefir ekki horfið hjá mér síðan. Þegar ég tuttugu árum síðar fann áður óþekkt lönd og steig fæti mínum á eyjar, sem mannsfótur hafði aldrei stigið á áður, fann ég til hinnar sömu barnslegu gleði og á drengjaárunum, er mig dreymdi um það að ég flyti á skipsflaki að landi á minni eigin eyju eða heimsækti Róbinson Krúsoe á sinni eyju.“

Síðar gerir Vilhjálmur grein fyrir því, hvernig reynsla hans í N. Dakota, veiðiferðir af ýmsu tagi og þá eigi síður baráttan við veðurfarið, geysilega sumarhita annars vegar og vetrarhörkur á hinn bóginn, hafi í reyndinni orðið honum hinn ákjósanlegasti undirbúningur undir

veiðilíf hans og vetrarferðir í heimskautslöndunum.

En æskuumhverfið í N.-Dakota varð honum einnig áhrifaríkt með öðrum hætti. Fangvíð sléttan tók, eins og hann segir sjálfur, hug hans föstum tökum á þessum mikilvægu þroskaárum hans. Hún kynti undir ævintýraþrá hans og gaf draumum hans byr undir vængi. Íslendingasögur og aðrar íslenzkar fornsögur, sem hann heyrði föður sinn lesa í heimahúsum á vetrarkvöldum, að gömlum og góðum íslenzkum sið, og hann las sjálfur síðar, urðu honum einnig hvatning til dáða, eins og þær hafa verið Íslendingum öldum saman.

Á unglingsárunum vann Vilhjálmur ýmis sveitastörf, meðal annars sem kúreki, eins og hann gat um í frásögn þeirri í bók sinni, er vitnað var til. En snemma komu námshæfileikar hans í ljós, og þekkingarþorsti hans var takmarkalaus, enda las hann allt, sem hann komst yfir. Eftir barnaskólanám á Mountain og á öðrum skólum, sem hann átti kost á að sækja innan sveitar sinnar, stundaði hann nám á Ríkisháskólanum (University of North Dakota) í Grand Forks, en lauk þó eigi fullnaðarprófi þar. Varð brottför hans þaðan með all sögulegum hætti og mynduðust um dvöl hans þar margar sögur, sem rúm leyfir eigi að rekja á þessum vettvangi, þótt skemmtilegt væri. En um megintilgang sinn með skólagöngu á æðri skóla fer hann svofelldum orðum í fyrrnefndum inngangskafla sínum að **Veiðimenn á hjara heims:** „Fyrir mitt leyti hafði ég einsett mér að verða skáld og áleit skólamenntun nauðsynlegan undirbúning þess.“

Jafnframt náminu á Ríkisháskólanum í Grand Forks vann hann fyrir sér með ýmsum hætti, en skóladögum hans þar lauk á miðjum vetri 1902; fékk hann þá vinnu við dagblað í Grand Forks, og stuttu síðar gerðist það, að Demókratar í N.-Dakota útnefndu hann til þess að vera í kjöri af sinni hálfu sem fræðslumálastjóraefni þar í ríkinu (State Superintendent of Education). Sannleikurinn er sá, að hann var of ungur til þess að skipa þann sess, ef hann hefði verið kosinn, en til þess kom ekki, því að hann og allir hinir Demókratanna, er í kjöri voru, féllu við kosningarnar, enda voru þeir í miklum minni hluta í N.-Dakota á þeim árum. Þar með var lokið stjórnmálaferli Vilhjálms, en hvergi nærri námsferli hans, góðu heilli.

Haustið 1902 hóf hann nám á Ríkisháskólanum í Iowa (University of Iowa), og lauk prófum þar í fjögurra ára námsgreinum á svo stuttum tíma, að hann brautskráðist þaðan vorið 1903. Var þar um einstætt námsafrek að ræða.

Fyrir aðstoð þeirra Dr. Samuel Eliot og Rev. W. W. Fenn, leiðtoga Únítara kirkjunnar, sem kynnzt höfðu Vilhjálmi nokkrum árum áður og litizt vel á hann, hlaut hann nú námstyrk til frekara náms í Guðfræðideild Harvard-háskóla, þar sem Dr. Fenn var prófessor í guðfræði, en með þeim skilningi, að hann mætti breyta til um námsefni, ef til kæmi, þar sem hann taldi lítil líkindi á því, að hann gerðist nokkurn tíma prestur. Kom það einnig í

ljós, áður langt leið á daginn, að hugur hans hneigðist í aðra átt. Haustið 1904 hvarf hann frá guðfræðináminu, en innritaðist í mannfræðideild háskólans, enda hafði hann nú ákveðið að verða mannfræðingur. Lauk hann meistaraprófi í þeim fræðum á Harvard-háskóla 1906.

Um afstöðu Vilhjálms til trúmálanna skal því bætt við, að hann var alla ævi maður frjálslyndur í þeim efnum, átti jafnan hinn opna hug sannleiksleitandans á þeim sviðum sem öðrum. Á seinni árum varð hann félagsmaður í Leikmannafélagi Únítara (Unitarian Laymen's League) og í ráðgefandi nefnd þess, og einnig í kirkjulegum félagskap Únitara (Unitarian Fellowship) í Hanover. Var hans einnig mjög vel og sérstaklega hlýlega getið í nóvember (1962) hefti málgagns Únítara Universalista, **Register-Leader**, og áður í styttra máli í októberhefti fréttabréfs þeirra (**In Brief**).

Eins og fyrr getur, hneigðist hugur Vilhjálms fyrst að skáldskap, og birti hann á háskólaárum sínum í Grand Forks allmörg kvæði (vitanlega á ensku) í mánaðarriti háskólastúdenta. Hefi ég nýlega athugað þessi kvæði hans, og hefi í huga að rita um þau ítarlegar einhverntíma, en þau eru ljóðræn, með undiröldu djúprar íhygli, og bera því vitni, að hann var stórum meir en venjulegum gáfum gæddur á því sviði. Einu af þessum kvæðum hans, „Heimspeki tvítugs manns“ (Philosophy of a Man of Twenty) sneri dr. Sigurður Júlíus Jóhannesson á íslenzku fyrir allmörgum árum síðan, og kom þýðing hans fyrst í vestur-íslenzku vikublöðunum, en síðar í grein dr. Sigurðar „Framtíðarbókmenntir Íslendinga í Vesturheimi“ hér í ritinu (1951); er þýðing hans tekin upp sem sýnishorn ljóðagerðar Vilhjálms, og er á þessa leið:

Á sál mína leitar kennd í kvöld
sem kærleikur skaparans
í öndverðu gaf sem leiðarljós
í lífi hvers óbreytts manns:
Því ástin er lögmál — alheimsmál;
hver einasta sál það kann;
hún veitir því ytra veg og skraut
og vermir hinn innra mann.

Það stórt er að vinna sigursveig,
í sögunni dýrð og hrós,
í frægðarverkum og skörungsskap
að skína sem fagurt ljós.
En öll þau verðlaun, sem veröld á
frá valdhafa nokkurs lands,
ég fyrirlít — kýs mér konuást
í kóngsríki óbreytts manns.

Þó glaumurinn nafn mitt hefji hátt,
sú hæð er mér engin þægð;
því konunnar ást, sem óð minn söng,
skal aldreigi mæld við frægð.
Og engin virðing, sem veröld á
frá valdhafa nokkurs lands,
má komast til jafns við konuást.
í kjörum og líðan manns.

En bregðist himnesk og heilög ást,
og hlotnist ei þér né mér,
þá dyljum sorgir og dáið líf
með drengskap við hvað sem er.
Því þeir, sem fórnstalla byggðu bezt,
og brautsmiðir sérhvers lands
eru ‚kappar, sem hlutu‘ ei konuást
né kóngsríki óbreytts manns.

Í þessu sambandi má einnig minna á það, að á háskólaárum sínum í Harvard (1904) birti Vilhjálmur

tvær athyglisverðar ritgerðir um hinar nýrri íslenzkar bókmenntir í mikilsmetnu og kunnu amerísku bókmenntariti, **Poet Lore** í Boston, ásamt allmörgum þýðingum sínum á íslenzkum kvæðum. Nokkrar þeirra þýðinga, að fengnu leyfi þýðandans, tók ég upp í þýðingasafn mitt **Icelandic Lyrics** (1930), meðal þeirra hina snjöllu þýðingu hans á kvæði Bjarna Thorarensens „Veturinn“, sem einnig er í þýðingasafni mínu **Icelandic Poems and Stories (1943)...**

Annars voru í Vilhjálmi mörg veðrin á þessum árum, og verður því eigi betur lýst en í orðum sjálfs hans úr inngangskaflanum að **Veiðimenn á hjara heims:**

„Á þessum námsárum mínum breytti ég oft um stefnu. Skáldaórar mínir voru það lengi við lýði, að ég hafði kynnt mér nærri öll ensk ljóðskáld og hin helztu tveggja eða þriggja annarra mála. Ég samdi einnig nokkur ljóð, er birt voru í tímaritum skólanna. Það má segja, að þetta væri ekki hinn hentugasti undirbúningur undir það lífsstarf að veiða hvítabirni og rannsaka Íshafslönd. Ég er þó ekki viss um nema svo hafi verið. Landkönnuðurinn er **skáld athafnanna** (leturbr. greinarhöf.), og mikið skáld í sama hlutfalli sem hann er mikill landkönnuður. Hann þarf að vera ríkur að hugsjónum ekki síður en að hafa afl til að berjast móti stórhríðum.

Nálægt miðri skólaveru minni fór mér að verða það ljóst, að ljóðagerð er ekki aðeins til í orðum, heldur einnig í athöfnum. Ferð Magellans er jafnstórfenglegt hugsjónaverk eins og nokkurt af leikritum Shakespears. Lög náttúrunnar eru skáldverk, sem ekki eyðast.

Þessar hugsjónir gripu mig svo, að ég ákvað að gefa mig heldur að vísindum en skáldskap.

Ég valdi mér til náms þau vísindi, er fást við lífið á jörðinni. Nú urðu Keats og Shelley að víkja fyrir Darwin og Spencer. Mig dreymdi um það að finna einhver ný lögmál lífsins, sambærileg við framþróunarkenninguna. Loks takmarkaði ég nám mitt við mannfræðina — þau vísindi, sem fást við manninn og starf hans, en beina þó sérstaklega athygli sinni að því, sem hugsunarlausir menn kalla menningarsnautt fólk eða villimenn.“

Segir Vilhjálmur ennfremur frá því, að hann hafi nú um tveggja ára skeið lesið af kappi bækur um Afríku til þess „að fást við raunhæf rannsóknarstörf í hitabeltislöndum“ þeirrar álfu. En örlögin höfðu ætlað honum annað hlutskipti. Rannsóknarferðir hans áttu að liggja norður í heimskautslönd en ekki suður á hitabeltissvæði á meginlandi Afríku, eins og fljótlega kom í ljós. Þess var sem sé ekki langt að bíða, að hann varð **skáld athafnanna** í svo ríkum mæli og áhrifamiklum, að fáir einir komast þar til samjafnaðar. Verður nú saga rannsóknaferða hans rakin í megindráttum, en mjög stiklað á stóru, rúmsins vegna.

## III.

Áður en hann hóf víðtækar ferðir sínar og rannsóknir á norðurvegum, fór Vilhjálmur tvær ferðir til Íslands, fyrri ferðina sumarið 1904, og dvaldist þá 6—7 vikur í Reykjavík,

lengstum á Landsbókasafninu, þar sem hann kynnti sér bækur og handrit. Um haustið hélt hann áfram námi í Harvard-háskóla, hafði nú snúið baki við guðfræðinni en helgaði sig allan mannfræðinni, sem nú hafði tekið huga hans föstum tökum. Hann hlaut námsstyrk frá Peabody-safninu, en auk þess vann hann fyrir sér sem fréttaritari **Boston Transcript.**

Næsta sumar (1905) fór hann aðra ferð sína til Íslands, að þessu sinni í vísindalegum erindum. Var ferð þessi að nokkru leyti farin á vegum Peabody-safnsins, en tveir skólabræður hans, John Hastings og Louis de Milhau, sem voru með í ferðinni, stóðu einnig fjárhagslega að henni. Dvöldu þeir félagar nærri þrjá mánuði á Íslandi og ferðuðust víða um landið. „Í þeirri ferð fór Vilhjálmur meðal annars út í Haffjarðarey, að ráðum séra Einars Friðgeirssonar á Borg, til þess að skoða gamla kirkjugarðinn þar, sem sjór var þá að brjóta, svo að mannsbein lágu þar sem hráviði. Þaðan höfðu þeir með sér 86 hauskúpur og nokkuð af beinum, en fundu enga beinagrind heila. Þetta beinasafn var síðan sent til Harvard-háskóla og síðar varðveitt við Peabody-safnið. Varð það frægt fyrir það, að ekki fannst ein einasta skemmd tönn í hauskúpum þessum öllum. Sýnir það, að tannskemmdir hafa verið óþekkt fyrirbrigði á Íslandi allt fram til siðaskipta." (Úr æviminningu Vilhjálms í **Morgunblaðinu** 28. ágúst 1962).

Í sambandi við frásögn sína um umrædda Íslandsferð þeirra félaga í bók sinni um Vilhjálm **Stefánsson: Prophet of the North** (1941), segir Earl Parker Hanson, höfundur hennar, að til þeirrar staðreyndar, að engar skemmdar tennur hafi fundizt í hauskúpunum í Haffjarðarey, megi, ef til vill, rekja uppruna ævilangs áhuga Vilhjálms á mataræði og sambandi mataræðis og heilsufars, en á því sviði gerði hann síðar mjög merkilegar rannsóknir og ritaði merkisrit um þau efni.

Segja má, að þessar ferðir Vilhjálms til ættlands síns hafi verið forspil að víðtækum rannsóknarferðum hans á Norðurslóðum. Og það var einmitt grein, sem Vilhjálmur hafði skrifað um fund Grænlands og landnám Íslendinga þar til forna í ameríska tímaritið **American Anthropologist**, er varð til þess, að honum bauðst þátttaka í íshafsleiðangri undir forystu bandaríska vísindamannsins Ernest de Koven Leffingwell og Danans Einars Mikkelsen, og var förinni heitið til Viktoríueyjar við austurströnd Kanada til þess að rannsaka vísindalega eðli og lífsháttu óþekktra Eskimóa á þeim slóðum. Tók Vilhjálmur þessu boði, en hvarf frá Afríkuferð sinni. Var hér um hina örlagaríkustu ákvörðun að ræða, er gjörbreytti framtíðarstarfi hans og æviferli.

Var það snemma vors árið 1906, að hann lagði upp í þennan fyrsta leiðangur sinn á Norðurslóðir, og var það hugmyndin, að hann og félagar hans mættust á Herschel-eyju, en svo fóru leikar, að skip félaga Vilhjálms náði þangað eigi áður en vetur gekk í garð. Einn og nærri févana var hann nú strandaður norður þar. Vafalaust hefði hann getað leitað á náðir Lögreglu-

liðs Norðvesturlandsins um vetrardvöl, en hann hafði lagt í þessa norðurför til þess sem mannfræðingur að rannsaka líf og hætti Eskimóanna á þessum slóðum, og nú ákvað hann „að dveljast meðal Eskimóa sem einn af þeim, til þess að læra mál þeirra og siði og kynnast þeim eins vel og auðið væri.“ Með þessari djörfu ákvörðun steig hann það spor, sem gjörbreytti æviferli hans um ókomin ár, og varð um allt hið ávaxtaríkasta í framtíðarstarfi hans. Hann dvaldi nú mánuðum saman meðal Eskimóa, lærði tungu þeirra og lifði lífi þeirra. Varð honum þessi vetrardvöl (1906—1907) í hópi þeirra um allt hin lærdómsríkasta, í rauninni ómetanlegur skóli fyrir seinni ferðir hans og rannsóknir í heimskautalöndunum, en frá því árið 1906 og fram til ársins 1918 dvaldi hann hvorki meira né minna en 10 vetur og 13 sumur norðan heimskautsbaugs, lengur en nokkur annar landkönnuður í þeim hluta heimsins.

Í næsta leiðangur sinn á Norðurslóðir fór Vilhjálmur 1908, ásamt með kanadíska náttúrufræðingnum dr. Rudolph M. Anderson, gömlum skólabróður sínum frá Iowa-háskóla. Var ferðin farin til rannsókna norður í heimskautslönd Kanada, en var kostuð af Ameríska náttúrufræðisafninu (The American Museum of Natural History). Voru þeir félagar fjögur ár í ferðinni. Dvaldi Vilhjálmur langvistum meðal Eskimóa og kynntist enn betur en áður lífi þeirra og háttum. Annars fóru þeir félagar víða um á þessum árum, könnuðu óþekkt landsvæði og kynntust Eskimóum, sem enn voru á steinaldar stigi.

Í þessum leiðangri fann Vilhjálmur norður á Viktoríueyju menn af kynstofni Eir-Eskimóa (þeir nefnast svo, af því þeir nota eir í verkfæri sín), sem voru miklu ljósari að hörundslit heldur en aðrir Eskimóar, og að ýmsu leyti frábrugðnir þeim um lifnaðarhætti.

Vilhjálmur hafði, eins og þegar er gefið í skyn, frá því á skólaárum sínum kynnt sér gaumgæfilega heimildir og frásagnir um landnám Íslendinga á Grænlandi og um Vínlandsfund og ferðir þeirra, og hafði mikið um það hugsað, hver orðið hefðu endalok Íslendinga á Grænlandi. Kom honum nú í hug, að hér kynni að vera fundin lausn þeirrar torráðnu gátu, að menn úr íslenzku byggðunum í Grænlandi kynnu að hafa flutzt vestur á bóginn, blandazt þar Eskimóum, og væru þessir „björtu“ (hvítu) Eskimóar afkomendur þeirra. Fyrstu kynnum sínum af þessum frumstæða kynstofni lýsir Vilhjálmur á þessa leið í bók sinni **Meðal Eskimóa** (þýðing Ársæls Árnasonar):

„Með því að komast til þessa fólks, hafði ég náð því marki, sem ég hafði þráð heitast í lífi mínu og barizt fyrir árum saman. Og minningin um fyrsta daginn meðal þess er mér ljúfari en nokkuð annað og mun ég minnast hans með fögnuði meðan ég lifi. Þetta voru ekki skáldlegir draumórar, heldur veruleikinn sjálfur. Við höfðum horfið, vakandi og með fulla skynjun, frá tuttugustu öldinni og inn í frumöldina. Milli menningar þessara Eskimóa og New York-búa var að minnsta kosti tíu þúsund ára millibil, þó að hvorirtveggja ættu heima á sama meginlandinu. Hér voru ekki leifar frá

steinöldinni, heldur steinöldin sjálf. Hér voru steinaldarmenn með sömu verkfæri, sömu hugsanir, sömu framkomu og forfeður vorir endur fyrir löngu. Hér þurfti ég ekki að vera með neinar getgátur, heldur aðeins að nota sjón mína og heyrn. Fólkið var hið alúðlegasta, bæði menn og konur, tók okkur opnum örmum, bauð okkur inn í híbýli sín og talaði við okkur.

Málið var ekki frábrugðnara máli Mackenzie-Eskimóa en svo, að við skildum strax hverir aðra og töluðum saman fullum fetum. Það mun sjaldan hafa borið við í sögunni, að fyrsti hvíti maðurinn, sem kemur til frumstæðs fólks, talar við það á móðurmáli þess. Því var þessi viðburður alveg sérstakur fyrir mig. Við gátum strax farið að ræða um sameiginleg áhugamál og áður en langt um leið var ég orðinn sem einn af þeim.“

Vilhjálmur heldur áfram frásögn sinni, og kemur nú að þeirri hlið málsins, sem snýr að okkur Íslendingum:

„Síðustu ár höfðu verið erfiðir tímar hjá þessum kynflokki. Áður fyrri hafði mikið verið dansað hjá þeim og áttu þeir margar trumbur. Nú var ekki til nema ein trumba. Glaðasólskin var og hlýtt veður, og meðan verið var að koma upp húsinu (danshúsinu), hljóp einn þeirra heim eftir trumbunni. Þá hófst skemmtunin og söng ung stúlka fyrir okkur og var trumban knúð undir söng hennar. Nokkuð var þetta með öðrum hætti en hjá hinum vestlægari Eskimóum. Söngljóðin voru misjöfn, en hún fór mjög vel með þau. Eitt þeirra virtist mér að kveðandi líkjast norrænu fornskáldakvæði. Sjálf var stúlkan nokkuð ljós yfirlitum, af Eskimóa að vera, með langa og granna fingur, sem annars er ekki að finna nema hjá Alaska-kynblendingum. Hér datt mér allt í einu í hug norrænu landnemarnir á Grænlandi, og kem ég að því efni seinna.“

Tilgáta Vilhjálms um uppruna þessara „hvítu“ Eskimóa, vakti, að vonum, á sínum tíma geysimikla athygli og jafnframt deildir meðal vísindamanna, en hugkvæmni lýsir tilgáta þessi, hvað sem öðru líður, og Vilhjálmur rökstuddi hana ítarlega í ritum sínum.

Hún varð Guttormi skáldi Guttormssyni tilefni gamanljóðsins „Hvítir Eskimóar“, sem að vísu er aðeins tvö vísuorð, en smellin og snjöll:

Eftir Vilhjálms utanför til Eskimóa
hvítu fólki fór að snjóa.

Fyrir nokkrum árum urðum við Vilhjálmur samferða á járnbrautarlest frá Fargo til Grand Forks í N. Dakota. Bar margt á góma, og meðal annars bárust „hvítu“ Eskimóarnir í tal. Minnti ég Vilhjálm á ofannefndar ljóðlínur Guttorms og fór með þær. Hafði Vilhjálmur mjög gaman af þeim og bað mig að senda sér þær, og gerði ég það í bréfi stuttu síðar. Um hitt þarf ekki að fjölyrða, að Guttormur skáld kann manna bezt að meta hin miklu afrek Vilhjálms, og vel er Nýja-Ísland sæmt af þeim sonum sínum, skáldbóndanum víðkunna og stórbrotna á Víðivöllum við Íslendingafljót og landkönnuðinum mikilhæfa og heimsfræga, Vilhjálmi frá Hulduárhvammi í Árnesbyggð.

Þessi leiðangur þeirra Vilhjálms og Andersons varð víðfrægur, og hinn merkilegasti fyrir margra hluta sakir, enda kvað forstöðumaður Ameríska Náttúrufræðisafnsins, dr. Henry Fairfield Osborn, svo sterkt að orði um hann, að enginn leiðangur, sem safnið hefði staðið að, hefði borið jafn giftusamlegan árangur. (Sjá formála hans að þýðingu Ársæls Árnasonar af bók Vilhjálms **Meðal Eskimóa**, 1938).

Fjarri fór þó, að þar með væri lokið sögulegum og ávaxtaríkum rannsóknarferðum Vilhjálms í heimskautslöndunum. Sumarið 1913 lagði hann, á vegum Kanadastjórnar, upp í leiðangur, sem hafði með höndum um fjögurra ára skeið fjölþættar vísindalegar rannsóknir í norðurhéruðum Kanada og Alaska. Rannsökuðu þeir Vilhjálmur og félagar hans ókunn landsvæði, mældu hafdjúpin og fundu ný lönd. Meðal annars ferðaðist hann í þeirri ferð langar leiðir á rekís, og var þar um algera nýlundu að ræða. Margvíslegir erfiðleikar og miklar hættur urðu, að vonum, á vegi þeirra félaga, og þar við bættist, að sumir ferðafélagar Vilhjálms brugðust trausti hans, óhlýðnuðust með öllu boðum hans sem foringja fararinnar og risu upp gegn honum. Verður sú saga ekki rakin hér, en hana geta menn lesið í ferðabókum Vilhjálms.

Hvað sem því líður, þá var rannsóknarferð þessi, frá vísindalegu sjónarmiði, hin árangursríkasta á mörgum sviðum, og markaði í rauninni tímamót í rannsóknum heimskautslandanna, þar sem Vilhjálmur hafði nú svo áþreifanlega sýnt í verki og sannað með langri eigin reynd þá kenningu sína, að hvítir menn gætu lifað í heimskautslöndunum við sömu kjör og íbúar þeirra, ef hinir fyrrnefndu semdu sig að háttum hinna síðarnefndu. En einmitt í þessari kenningu var fólginn hinn sérstæði og mikilvægi skerfur Vilhjálms til landkönnunarferða og rannsókna á Norðurslóðum.

Að loknum þessum leiðangri Vilhjálms sæmdi ameríska Landfræðifélagið (The National Geographic Society) hann mesta virðingarmerki sínu, Hubbard gullmedalíunni svonefndu, og höfðu þeir heimskautafararnir Peary og Amundsen einir hlotið hana á undan honum. Í veizlu, sem félagið hélt Vilhjálmi til heiðurs, þegar honum var afhent heiðursmerkið, fluttu tveir frægustu norðurfarar Bandaríkjanna, þeir Peary admirall og Greely herforingi ræðu, og fóru um afrek Vilhjálms hinum mestu lofsyrðum. Komst Peary, meðal annars, svo að orði um Vilhjálm:

„Ég ætla ekki að gefa hér neitt yfirlit um starf hans. Það mun hann gera sjálfur. En ég leyfi mér aðeins að geta þess, að hann hefir bætt meira en 350,000 ferkílómetrum við landabréfin á þessum svæðum — meira en nokkur einn maður annar um mörg herrans ár hefir gert. Hann hefir mælt strandlengju þriggja eyja, sem voru algerlega óþekktar áður, og athuganir hans á öðrum svæðum, svo sem að hafa staðfest legu landgrunnsins, fyllt upp í óþekktar eyður í eyjahafinu og það sem honum hefir áunnizt með að auka þekkingu okkar á þessum svæðum, er í rauninni ekki hægt að meta að verðleikum.“

Ennfremur fórust Peary þannig orð: „Afrek Vilhjálms eru í því falin, að hann hefir lært það, hvernig ætti að haga sér á Íshafs-svæðunum og notfært sér þekkingu sína stig af stigi. Hann hefir reynt og prófað þangað til hann vissi, hvernig fara átti að við hvert viðfangsefni sem var á Íshafssvæðunum. Starfsaðferð hans var sú að nota heila og gáfur, þol og viljaþrek hvítra manna og auka þar við veiðilist, eða, ef svo mætti að orði komast, heimskautslist Eskimóa — að komast á það lag að lifa af því, er svæði þau, sem hann fór um, höfðu að bjóða, að geta notfært sér hvaðeina það, sem hægt var að afla sér innan um ísauðnir og fannkyngi — og jafnframt að framkvæma þau rannsóknarstörf, er hann ætlaði sér."

Hér er ágætlega lýst grundvallandi kenningum Vilhjálms og starfsaðferðum hans á Norðurslóðum, og hér kemur einnig fram það meginatriði í landkönnunarferðum hans, að hann beitti alltaf vísindalegum aðferðum í þeim ferðum sínum. Enda er það haft eftir honum, að þegar hann var að því spurður, og það kom oft fyrir, hvers vegna hann hefði ekki farið alla leið til Norðurheimskautsins, þá hafi hann svarað: „Ég er vísindamaður en ekki ferðamaður."

Þar sem sögulegur umræddur leiðangur Vilhjálms var farinn á vegum Kanadastjórnar, fer vel á því að minna á eftirfarandi ummæli Sir Roberts Laird Borden, þáverandi forsætisráðherra Kanada:

„Sá hefir orðið árangur leiðangursins meðal annars, að við Kanada hefir verið bætt landsvæðum svo þúsundum ferkílómetra skiftir, mikið og stórmerkilegt efni fyrir vísindin hefir verið unnið, víðáttumikil, óþekkt svæði hafa verið rannsökuð og mörgum villukenningum verið eytt viðvíkjandi landsháttum í norðurvegi." (Ofangreindar tilvitnanir eru teknar úr inngangsköflunum í þýðingu Ársæls Árnasonar að fyrsta bindi rits Vilhjálms **Heimskautslöndin unaðslegu (The Friendly Arctic)**, 1938).

Á víðtækum ferðum sínum og í hinni löngu dvöl norður í heimskautslöndunum komst Vilhjálmur oft í krappan dans, og var margsinnis talinn af. Sem betur fór, komst hann þó jafnan heill á húfi úr þeim heljargreipum.

IV.

Vilhjálmur hætti rannsóknarferðum sínum á norðurvegum árið 1918, þegar hann var innan við fertugt, og helgaði síðan fágæta starfskrafta sína, í ræðu og riti, þeirri þörfu viðleitni að fræða umheiminn um heimskautslöndin, hina miklu möguleika þeirra og þær orku- og auðlindir, sem þau búa yfir. Sú bók hans um það efni, sem vakið mun hafa mesta athygli, var **The Friendly Arctic** (Heimskautslöndin unaðslegu), er fyrr var nefnd. Útkoma þeirrar bókar á enskunni (1921) vakti jafnframt miklar deilur, því að hinar nýju kenningar Vilhjálms um heimskautslöndin, sem hann vegsamaði í þessari bók sinni og öðrum ritum og ræðum, brutu algerlega í bág við hefðbundnar skoðanir og rótgróna hleypidóma í þeim efnum, og varð hann því fyrir hörðum árásum af hálfu fylgjenda þeirra skoðana.

